# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, FEBRÚAR 1900. Nr. 12.

## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Jóh. 1, 29—34.

(Lag: Spámaðr æðsti, sem hefir frá hæðum.)

1. Ekki eg þekkti minn frelsarann fríða,
fyrrum í skírninni er kom hann til mín
mildr og ljúfr með boðskapinn blíða,
bauð mér í heilaga kristni til sín.
Þá var eg ungr og ekkert mig blekkti,
ei þó eg blessaðan frelsarann þekkti.

2. Ekki eg þekkti minn hollvininn hýra,
hér þegar komst eg á framfaraskeið.
Vildi' hann til blessunar braut minni stýra,
blindr eg villtist oft öfuga leið.
Glysið og hégóminn heimsins mig blekkti,
hollvininn kærasta minn eg ei þekkti.

3. Ekki eg þekkti minn konunginn kæra,
kafinn í önn er eg dagsþungann bar;
boð lét hann aftr og aftr mér fœra,
aldrei að koma eg tilbúinn var.
Stritið og veraldarvastrið mig blekkti,
volduga konunginn minn eg ei þekkti.

4. Ekki eg þekkti minn grœðarann góða,
grátinn er stundi' eg og sekt mína fann;
aldregi lét hann af lækning að bjóða,
líknarvon enga þó setti' eg á hann.
Sorgin og eymdin og syndin mig blekkti,
sjálfan minn grœðarann ekki eg þekkti.

5. Nú fyrst eg þekki minn lausnarann ljúfa,
loksins eg fengið hef bjargtrausta von.
Sýndi mér andans hin saklausa dúfa
saklausa lambið, guðs ástfólgna son.
Vona' eg, að framar mig falsmál ei blekki
fyrst eg minn einasta lausnara þekki.

---

## Dwight Lyman Moody,

hinn heimsfrægi prédikari, andaðist 22. Desember á heimili sínu í bœnum Northfield í Massachusetts innan Bandaríkjanna. Hann var fœddr í fátœklegum kofa í nánd við þann bœ 5. Febr. 1837. Þegar hann var á fjórða árinu, missti hann föður sinn, og tveim árum seinna kom móðir hans honum fyrir hjá bónda einum þar í nágrenninu til þess að reka kýr. Vinnudrengsstöðu þeirri var hann í þangað til hann, 17 ára gamall, réðst í skóbúð hjá móðurbróður sínum í stórbœnum Boston. Til mennta var hann ekki settr í œsku að öðru leyti en því, að hann gekk um hríð á alþýðuskóla sveitarinnar, þar sem hann ólst upp. Og þann tíma, sem hann dvaldi í Boston, gekk hann líka stöðugt á sunnudagsskóla. Þótti hann á þeim aldri fremr daufgjörðr að gáfum til. Undir haust árið 1856 fór hann frá Boston vestr í land og settist að í Chicago. Um sama leyti vaknaði hann verulega til kristinnar trúar og meðvitundar um það, að hann væri af drottni kallaðr til ákveðinnar starfsemi fyrir guðs ríki.

Hann vann þó enn um hríð að sömu handiðn eins og áðr — í skóbúð, en bauð sig jafnframt fram sem sunnudagsskólakennara þar sem líklegast þótti. Boð hans var þegið með því skilyrði, að hann myndaði sjálfr bekk í sunnudagsskólanum.

þetta tókst honum prýðilega. Hann safnaði undir eins 18 berfœttum götudrengjum saman og tók að kenna þeim í bekk út af fyrir sig. Og brátt fjölgaði hópr lærisveina hans svo, að hann komst ekki fyrir með hann á hinum upphaflega stað. Leigði hann sér þá drykkjuskála einn, sem stóð auðr, og kenndi þar. Seinna fékk hann rúmbetra húsnæði, en ekki öllu virðulegra. það var danssalr nokkur, þar sem fólk lék sér, einkum á laugardagskvöldum, langt fram á nótt. Og varð hann þá sjálfr með eigin höndum að sópa þar og hreinsa til eftir að dansfólkið loksins var farið burt. Ekki leið þó mjög langr tími áðr en hann fékk göfugra húsnæði fyrir sunnudagsskólann sinn. Auðmaðr einn í Chicago lét reisa stórhýsi eitt—Farwell Hall, sem Moody var eftir látið til hins mikilsverða kristindómsstarfs. Skömmu síðar hófst borgarastríðið mikla í Bandaríkjunum, og tók Moody þá að prédika á ýmsum stöðum fyrir hermönnum. Var þá almennt farið að taka eftir honum sem rœðumanni. Eftir ófriðinn starfaði hann í Chicago á sama hátt og áðr. Stórhýsið, sem hann áðr hafði notað, var að vísu brunnið, en brátt safnaðist fé til endrreisnar því, svo hann gat haldið verki sínu áfram í stœrra og stœrra stýl.

Skömmu eftir hinn mikla bruna Chicago-bœjar árið 1871 hófust hinar frægu ferðir hans til trúarlegrar uppvakningar víðsvegar um land, er síðan héldu áfram öðru hverju öll árin, sem eftir voru af æfi hans. Og varð söngmaðrinn Ira D. Sankey, sem honum var svo einkar líkr að allri andastefnu, félagi hans og samverkamaðr á þessum uppvakningarferðum. Moody hefir—eftir því, sem sagt er—prédikað í nálega hverjum einasta bœ í Bandaríkjunum, er nokkuð kveðr að. Og allsstaðar hefir fólk streymt til hans í feykilega stórum hópum. Frá 1873 til 1875 dvaldi hann í Bretlandi og prédikaði á þeim tíma í London, Edinborg, Glasgow, og öðrum stórborgum. Nokkrum árum fyrr hafði hann verið þar og komið þar opinberlega fram. Og þá fannst Bretum svo mikið til um hina kristilegu talsgáfu hans, að sterklega var á hann skorað að koma aftr til þess að vitna fyrir almenningi um Jesúm Krist. Aðrir eins menn og Gladstone og Henry

Drummond settust við fœtr hins ólærða alþýðuprédikara. Bretland og Ameríka laut honum jafnt, eins og þeim manni, er umfram alla aðra hans samtíðarmanna hefði af guði verið kjörinn til þess að tala máli kristinnar trúar og breiða út ríki hans. Moody hefir vafalaust haft fleiri tilheyrendr en nokkur annar kristinn kennimaðr á þessari öld.

Dr. Trumbull, ritstjóri blaðsins *Sunday School Times*, sem var Moody persónulega nákunnugr, segir frá því í blaði sínu, hvernig þessi ameríkanski gestr náði haldi á hjörtum Englendinga, þegar hann í fyrsta skifti kom fram opinberlega á kristilegri samkomu einni mikilli í London. Moody hafði verið boðið að tala þar. Nú er það regla í því mannfélagi— eftir því, sem Trumbull segir—, að þegar gestr á að tala á slíkum mannfundi, þá verðr hann til þess að geta fengið orðið að bera fram eða styðja tillögu eina ákveðna. Þetta er að eins form, en það form er heimtað ; eða það er gengið út frá því eins og nokkru sjálfsögðu. Samkvæmt forminu var þá í þetta skifti ætlazt til, að Moody bæri fram tillögu um það, að manninum, sem stýrði samkomunni, skyldi þakkað ; en fundarstjórinn var hinn stór-frægi höfðingi, Shaftesbury jarl. Þegar líðr á kvöldið og tími þykir til þess kominn, að Moody fái orðið, víkr jarlinn úr forsetasæti og lætr varaforseta taka við fundarstjórn til þess að hin fyrirskipaða tillaga geti nú komizt að. Varforseti lýsir þá yfir því, að þeir segi ,,frænda þeirra úr Ameríku, séra Moody frá Chicago'', með ánœgju velkominn, og muni hann nú bera fram tillögu um þakklæti til handa hinum göfuga herra, jarlinum, sem hér hafi haft forsetastarf á hendi. Moody stóð undir eins upp og tók til máls. ,,Fundarstjóranum hefir tvívegis skjátlazt í þessum inngangsorðum sínum''—segir hann. ,,Eg er fyrst og fremst alls ekki neinn *séra* Moody. Eg er blátt áfram Dwight L. Moody, sem er að eiga við sunnudagsskóla-starf. Og í annan stað er eg ekki *frœndi* yðar frá Ameríku. Eg er fyrir guðs náð *bróðir* yðar, sem eins og þér hefi hjartanlegan áhuga á verki föður vors fyrir börnin hans.—Og að því, er snertir tillöguna um þakklæti til handa hinum göfuga herra, jarlinum, fyrir það, að hann stýrir samkomu þessari, þá fæ eg ekki séð,

hvers vegna vér fremr ættum að þakka honum en hann oss. það var eitt sinn, að menn bjuggu sig til að greiða honum Lincoln okkar þakklætis-atkvæði fyrir það, að hann gegndi forsetastarfi á fundi einum í Illinois; en þá lét hann þá hætta við það. Hann kvaðst hafa reynt að gjöra skyldu sína og þeir hefði reynt að gjöra þeirra skyldu. Og hélt hann, að það gæti vegið hvað á móti öðru. "

Moody kom á fót fjórum kristilegum menntastofnunum: tveim akademíum fyrir drengi og einum kvennaskóla í Northfield, og biblíufræðaskóla í Chicago. Dr. Weidner, forstöðumaðr prestaskólans lúterska í Chicago, kenndi um tíma á þessum síðastnefnda skóla Moody's. Til að halda stofnunum þessum í gangi hafa að undanförnu þurft 125 þúsundir dollara. Og hefir Moody sjálfr lagt mest-allt það fé til. Hefir honum innhenzt það á prédikunarferðum sínum. En nú er við fráfall hans ákveðið, að hafa upp með samskotum þrjár milíónir dollara, mynda þar af sjóð og láta renturnar bera kostnaðinn, sem áframhald kennslustofnana hans hefir í för með sér.

Að því leyti, sem Moody heyrði nokkurri sérstakri kirkjudeild til, þá var það Kóngregazíónalista-kirkjan. En annars tók hann nálega ekkert tillit til kenningar-afbrigða þeirra, er aðgreina hina ýmsu evangelisku kirkjuflokka. Og lá að sumu leyti styrkr hans í því, en að sumu leyti líka veikleiki hans. Veikleiki stefnunnar hefir þó miklu fremr komið fram hjá uppvakningarprédikurunum ýmsu, sem hafa verið að reyna til að stæla hann, en honum sjálfum. þeim hefir svo oft hætt við að koma kristnu fólki til að ganga fram hjá sinni eigin safnaðarkirkju og vera í andlegu tilliti allsstaðar og hvergi. En Moody gjörði sér yfir höfuð að tala far um að draga menn inn í kirkjuna, festa þá í safnaðarkirkjunum þeirra og koma þeim til þess að láta þar ljós sitt skína. Hann trúði hiklaust á biblíuna sem guðinnblásið sáluhjálparorð. Og aðalatriði kenningar hans var æfinlega kærleikr guðs og hin frelsandi náð hans í Jesú Kristi. Hann var heitr tilfinningamaðr og lagði líka mikla áherzlu á það í prédikunum sín-

um að hrífa tilfinningar áheyrenda sinna.—Prestvígðr var Moody aldrei.

Talsverð söfn af prédikunum hans hafa verið gefin út í bókarformi. Ýmsar aðrar bœkr eru og til eftir hann, þar á meðal einna helztar kristilegar smásögur sömu tegundar og þær, er hann iðulega beitti til skýringar og áherzlu hinum munnlega kristindómsboðskap sínum.

Moody dó af hjartabilan. Hann fékk mjög milt andlát. Skömmu áðr en hann skildi við sagði hann: ,,Jörðin er að fœrast fjær, en himininn að opnast. Guð kallar á mig.'' Meðan hann enn stóð uppi heill heilsu, en ekki löngu áðr en hann tók sjúkdóm þann, er varð hans banamein, komst hann eitt sinn svo að orði: ,,Einhvern tíma verðr yðr flutt sú fregn, að Moody sé dáinn. Trúið ekki einu orði af því. Þegar sú stund er komin, má áreiðanlega miklu fremr með sanni segja, að eg sé lifandi en nú.''

Elzti sonr hins mikla prédikara, William R. Moody, var af föður sínum kjörinn til þess að veita verki hans forstöðu að honum látnum. Hann býst nú og við að gefa hið fyrsta út æfisögu föður síns, og hefir hann lengi safnað skilríkjum að því verki.

---

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

---

### VIII.

Ekki má eg ganga fram hjá fundi þeim, sem prestarnir í Húnavatnssýslu héldu að Blönduósi í kirkjunni þar þriðjudaginn 8. Ágúst. Prófastrinn, séra Hjörleifr Einarsson, gekkst fyrir fundinum og bauð mér að vera viðstaddr. Stutt skýrsla um fund þennan var birt í ,,Verði ljós!'' Á þetta því ekki að verða nein fundarskýrsla. —Af 10 prestum prófastsdœmisins sóttu 7 fundinn. Einn prestr úr Skagafirði, sem var samferða prestunum á fund og átti eina dagleið heim til sín, mátti ómögulega vera að því að vera viðstaddr, —jafnvel ekki við fundarbyrjan. Þó var fundr þessi haldinn í vikubyrjun, miklu fjær helgi en sumir þjóðmenningarfundir, sem

prestar sœkja. Auk þess frétti eg, að enginn atburðr eða starf í prestakalli þessa Skagfirðings heimtaði þennan hraða. Og þó var hann einn hinna yngri presta, maðr, sem skapa skyldi andlegan áhuga hjá heilum mannhópi — og helzt þjóðfélagi. Hvað skyldi vera hugsað um slíkt ,,áframhald" meðal kristinna manna í útlöndum, ef prestrinn fengist ekki til að taka beizlið út úr hesti sínum, þegar þannig stendr á, — auk þá heldr til þess að opna eyru eða munn um andleg mál, sem eiga að vera sameiginleg áhugamál, hin einu kappsmál kennimannsins, og það í kirkju, á samfundi brœðranna sjálfra? — Einir tveir menn, utan prestanna, komu á fund. Og mér fannst það vera spursmál í hugum sumra, hvort þeir ætti þar að vera. Eins og það sé ekki einmitt þakklætisvert og eitt hlutverk prestanna að vekja þann áhuga hjá fólkinu, sem hlýtr að senda það á stað á slíka fundi. Kristindómsmálin eru engin leyndarmál, ekkert, sem setja á undir mæliker. Og prestarnir þurfa að þrá það, ekki að eins að tala saman sjálfir um þau, heldr að fá fólk sitt til að hlusta á og taka þátt í fundahöldum á síðan. Vitaskuld eru til og tíðkaðir fundir fyrir presta einungis, en þá eru umtalsefnin öðruvísi valin. Hér voru fundarmálin alveg öll almenns eðlis. — Prófastrinn var víst sá maðrinn, sem kom fundinum á. Enda get eg ekki látið hjá líða að segja það hér, að eg vildi óska íslenzku kirkjunni, að margir leiðtogar hennar væri honum líkir að áhuga og ýmsu öðru, sem prýðir hann í mínum augum að minnsta kosti. — Maðr finnr það, að þar er alveg látlaus maðr, er gefa vill daglega guði hjarta sitt, maðr með mjög heilbrigðum skilningi á kristindómsboðskapnum og eftir því, sem gjörist úti á Íslandi, með óvenjulega ljósri þekking á því, sem þar er að andlega enda er hann einn af þeim fáu—og er það meira —, sem enga tilraun gjörir til að afsaka sig né sína stétt frá þeim ábyrgðarhluta, er kennimennirnir bera í sambandi við hin andlegu harðindi föðurlandsins. — Séra Hjörleifr er ,,með" í öllum andlegum umbótahreyfingum meðal Íslendinga, og Vestr-Íslendingar hafa aldrei goldið þess hjá honum, að þeir eru fluttir úr sínum fœðingarhrepp, — ef þeir annars eru Íslendingar og kristnir vinir kirkju sinnar og þjóð-

ar. — þess vegna er hann einnig heitr bindindismaðr, þó sú hreyfing eigi örðugt uppdráttar í prófastsdœmi hans og telji að eins einn prest, auk hans, sem er ákveðinn andstœðingr vínnautnarinnar. — það er enn ekki orðið „fínt" sumsstaðar í norðrlandi meðal heldra fólksins að vera í vínbindindi, þótt þess sé fullkomin þörf.

Vitanlega geta nú sumir tekið undir með einum merkum presti á Íslandi, er samkvæmt opinberri fundarskýrslu á að hafa lýst yfir því, „að hann hafi ávallt verið vinr hófdrykkju og bindindis." — Og þetta á að hafa verið sagt á prestafundi. Eg er hálf-hræddr um, að þó að sumir, að minnsta kosti bindindismenn, eigi ef til vill örðugt með að skilja þessa bindindis-afstöðu prestsins (því um *bindindi* var að rœða), þá sé þetta hið sanna og hversdagslega um afstöðu margra fleiri merkra manna í því máli. þótt fleira sé að varast en vín, á Íslandi sem annarsstaðar, og þótt baráttan gegn böli ofdrykkjunnar þar hafi á stundum orðið öfgafull, þá er afstaða meiri hluta prestanna öfganna mest og óeðlilegust af öllu í starfseminni með og móti hinu mikla meini landsmanna, — sem er íbúum Íslands, háum og lágum, lakari plága en bráðafár og fjárkláði er sauðpeningi landsins.

Prestrinn verðr ávallt að hugsa: „Ekkert mannlegt er mér óviðkomanda," og með meistaranum leggja sitt líf fram fyrir sauðina, týna því, svo hann ávinni sér það.

Séra Hjörleifr vann og talaði af miklum áhuga á Blönduós-fundinum. það leyndi sér ekki, að hann tekr sér margt nærri í nútíðar-kirkjulífi lands vors. Og það gjöra vafalaust margir fleiri en hann. Messuföllin eru raunalega mörg. En þó er einna lakast, að við hinar opinberu guðsþjónustur, eins fáar og þær víða eru, eru oft og jafnvel ætíð, nema á hátíðum, sárfáir menn, — ef til vill færri einstaklingar, sem hlýða þar á sumum stöðum messu allt árið en hér hlýða einni eða tveimr guðsþjónustum í prestslausum byggðum.

Einn ungr og áhugamikill prestr, séra Ásmundr Gíslason, hreyfði á fundinum við atriði, sem allir Íslendingar hefði gott af að legðist ekki í þagnargildi: ósiðum við greftranir, einkum víndrykkju. Hann hafði verið þar við staddr, sem eftir

jarðarförina var mælt fyrir skálum og meðal annars höfð fyrir texta þessi hending: ,,Hvað er svo glatt sem góðra vina fundr?“ Skömmu síðar var eg staddr við útför, þar sem allt þótti í hófi fara, en bæði sá menn verða ölvaða og heyrði þar ,,skála-rœður“. Meðal Vestr-Íslendinga eru vínveitingar að vísu úr sögunni við allar jarðarfarir og nálega allar veizlur, en hve nær skyldi oss verða það ljóst, að allar erfisdrykkjur eru óviðeigandi og af heiðinglegum uppruna?—Eg sá eitt skifti kínverska útför í Chicago, og hún var ekkert nema átveizla. Og hún var í sannleika óskemmtileg. En þótt einhverjum þyki það illa sagt, þá er það sú eina veitinga-athöfn, sem eg man eftir að hafa séð við jarðarför utan Íslendinga, — án þess eg vilji líkja þeim þjóðum saman að öðru leyti, því það er mjög fjarri mér.

Sú var einnig tíðin, að Ameríkumenn héldu erfisdrykkjur. Á þeirri tíð var víndrykkja og trúleysi mjög ráðandi hér, einkum nokkru eftir frelsisstríðið. Prestarnir voru þá einnig fyllilega *með* og drukku sig ölvaða við jarðarfarir. —En eftir það fráhvarf kom aftrhvarf. Í stað trúleysis kom trú. Prestarnir sáu að sér og prestaköllin fylgdu. Í stað erfisdrykkjunnar kom altarisgangan. Og þannig er það enn í þessu landi eftir 100 ár.

Hjartans feginn vildi eg óska, að þannig fœri hvervetna meðal vor Íslendinga, —að þessi aftrhvarfssaga yrði hjá oss ítrekuð.

Þessi fundr prestanna í Húnavatnssýslu, sem er nálega einn í sinni röð, og þeim til sóma, stóð of stutt. Í rauninni var ekki setið á fundi nema hálfan dag. En þegar prestar hafa komið langa leið, ætti þeir að dvelja lengr saman og rœða mál sín og kirkjunnar, ekki sízt þegar svo margt andlegt starf er í óefni komið og sjaldan er unnt að finnast. Hinn lögskipaði héraðsfundr hafði misheppnazt greinilega. Prestrinn, sem falið hafði verið að prédika, kom ekki, og lögmætr varð hann ekki, auk þess að hann var illa sóttr úr héraðinu, þar sem hann skyldi haldinn.

Aftr verðr það ekki sagt um prestafundinn. Mér þótti sjálfum vænt um hann, og man eg vel eftir þeim degi sem einum

hinum gleðilegasta í þeim kafla æfi minnar, sem er við Ísland tengdr, þrátt fyrir sumt, sem eg hefði kosið á annan veg. — Á þeim fundi sat, meðal annarra góðra vina, Nestor prestanna á Íslandi í nútíðinni, séra Þorvaldr Bjarnarson. Hann er alkunnr fróðleiksmaðr og gefr sig meðal annars nú mjög við enskum kirkjulegum bókmenntum, sem mun heldr fátítt á meðal íslenzkra sveitapresta — því ekki tel eg þar til ensku vantrúar-heimspekina í bókasafni eins vinar míns í höfuðstað norðrlands, Akreyri.

## Frá kirkjuþingi „General Councils“.

Eftir séra N. Stgr. Þorláksson.

II.

Forseti *General Councils* fyrir næstu tvö ár var kosinn sœnskr prestr, dr. Matt. C. Ranseen í Chicago. Varaforsetar eru sjálfkjörnir allir forsetar hinna ýmsu kirkjufélaga *G. C.s* nema forseti þess kirkjufélags, sem forseti *G. C.s* er úr. Forseti sœnsku sýnódunnar er þess vegna nú ekki í tölu varaforsetanna. Eiga þeir því vitanlega allir sæti á þingi *G. C.s* og eiga að leggja fram fyrir það skýrslur um hag og starfa sinna kirkjufélaga. Eru þeir allir í framkvæmdarnefnd *G. C.s* ásamt með forseta, skrifurum (6) og féhirði. Sex stjórnarnefndir (Boards) voru kosnar; 4 í heima-trúboðsmálið, 1 fyrir hverja hinna 4 deilda, sem það skiftist í (sœnsk, þýzk, ensk og innflytjenda-deildin); 1 í heiðingja-trúboðsmálið, og 1 útgáfunefnd, sem sér um útgáfu rita og bóka félagsins. Hafa allar þessar nefndir á hendi meðferð alla og umsjón þessara mála og framkvæmdir í þeim. Auk þeirra voru kosnar 17 standandi nefndir í ýms önnur mál, stór og smá. Er þetta ofr lítið sýnishorn af starfsemi félagsins; því nefndirnar eru allar starfandi, en ekki að eins „standandi“, og hafa sumar ákaflega mikið verk að vinna. Skal eg geta þess, að það tók 4 klukkustundir að lesa upp skýrslu stjórnarnefndarinnar í heiðingjatrúboðsmálinu. Skýrslur allar og álit allra þessara ýmsu milli-þinga-nefnda er búið að semja, þegar á þing kemr. Var

þeim að minnsta kosti í þetta skifti útbýtt prentuðum á meðal þingmanna, svo þeim gafst tækifæri að kynnast þeim áðr en samþykkta var leitað. Eg get um þetta, vegna þess að það gæti komið sér vel, ef standandi nefndir í voru kirkjufélagi sæi við eiga, að færa sér eitthvað af því í nyt.

Helztu stórmál *G. C.s* á þinginu voru þessi: heima- og heiðingja-trúboð, sunnudagsskóla- og mennta-mál, og líknarstarfsemin ; enda er framtíð kirkjunnar undir því komin, hvernig málum er sinnt og þau rekin. Lýsti sér ekki að eins mikill áhugi fyrir þessum málum hjá *G. C.*-mönnum, heldr líka það, að þeir hafa komið á miklum framkvæmdum í þeim og leggja mikið í sölurnar fyrir þau.

Að því, er til heima-trúboðsins og sunnudagsskólamálsins kemr, er þýðing þeirra mála fyrir kirkju vora einlægt að verða kirkjufólki voru ljósari. En vitanlega sefr væran hjá oss yfirleitt skyldutilfinningin fyrir heiðingja-trúboðinu og líknarstarfseminni; og að því, er snertir menntamál vort eða ,,skólamálið'', þótt það í orði kveðnu sé vort stœrsta mál, þá virðist kirkjulega sjónin á því vera fremr óglögg og þar af leiðandi áhuginn fyrir því fremr bragðdaufr. En vonanda er, að þetta lagist hjá oss og oss fari smásaman fram með vaxandi kristilegum og kirkjulegum áhuga og forsjálni.

Rœður voru fluttar og fyrirlestrar um öll þessi stór-mál í sambandi við opinberar guðsþjónustur fjögur kvöldin bæði í kirkju dr. Roths, þar sem þingið stóð, og í öðrum kirkjum tilheyrandi söfnuðum *G. C.s* í bœnum. En sunnudagsmorguninn 1. Okt. á undan hádegis-guðsþjónustunni var samskonar samkoma haldin með rœðum um sunnudagsskólamálið að eins í kirkju dr. Roths. Futtu rœður þrír í hvert skifti við allar þessar samkomur, er voru mjög uppbyggilegar og vekjandi, enda var stofnað til þeirra í þeim tilgangi að auka áhugann á þeim bæði hjá þingmönnum og safnaðarfólki. Menn þeir, sem töluðu fyrir málunum, voru líka sérstaklega vel til þess fallnir sökum stöðu sinnar og starfa. T. d. fyrir menntamálum töluðu þessir: dr. Theo. L. Seip, forstöðumaðr fyrir ,,Muhlenberg College'', latínuskóla Pennsylvaníu-sýnódunnar, dr. Theoph. B. Roth, forstöðumaðr fyrir ,,Thiel College'',

latínuskóla Pittsburg-sýnódunnar — hafa 3 Íslendingar útskrifazt af þeim skóla — og dr. Revere F. Weidner, forstöðumaðr Chicago-prestaskólans, tilheyrandi Chicago-sýnódunni— 4 af prestum vorum hafa útskrifazt af þeim skóla.

(Meira.)



*The Lutheran Cyclopedia* er ritverk eitt nýlega út komið á prent hjá *Charles Scribner's Sons* í New York, — eitt bindi í stóru 8 bl. broti, hátt á 6. hundrað blaðsíður. Aðal-ritstjórinn hefir verið dr. H. E. Jacobs, hinn merki kennari við prestaskólann lúterska í Philadelphia, en með honum hefir John A. W. Haas prestr unnið í ritstjórninni. Þetta er fjölfrœðibók fyrir lútersku kirkjuna, og hafa ritstjórarnir útvegað sér í hana ritgjörðir, flestar mjög stuttar (smágreinir), en sumar talsvert langar, frá prestum og guðfrœðingum í hinum ýmsu deildum lútersku kirkjunnar í Vestrheimi. Og líka einn hinna merkustu lútersku guðfrœðinga á Þýzkalandi, prófessor Zöckler í Greifswald, hefir verið fenginn til að leggja sinn skerf, þótt ekki sé mikill að vöxtum, til ritgjörðasafns þessa. Alls hafa til bókarinnar lagt um 180 manns, og er nafnaskrá yfir rithöfundana aftast í verkinu.

Bók þessi er að ýmsu merkileg og getr orðið að miklu gagni, ekki að eins fyrir presta, heldr líka fyrir leikmenn. Hún hefir svo sem við er að búast stór-mikinn lúterskan fróðleik að geyma. Sumar ritgjörðirnar eru ágætlega vel samdar. En hins vegar vantar þar ýmislegt, sem búast hefði mátt við að stæði þar. Og stöku greinir eru villandi, — eins og t. a. m. greinin um Manitoba (*Lutheran Church in Manitoba*) eftir John Nicum í Rochester, N. Y., prófessor og doktor. Eftir því, sem þar kemr fram, veit hann um enga aðra lúterska menn í þessum parti landsins en þá, er tilheyra þýzku sýnódunni frá 1897; og er þetta því merkilegra, þar sem dr. Nicum hefir sjálfr komið hingað til Winnipeg og fleiri staða í Manitoba.

En þótt vor Íslendinga sé ekki getið á þessum stað í bókinni, þá er þó engan veginn svo að skilja, að annars sé þar þegjandi fram hjá oss gengið. Þvert á móti er tiltölulega

miklu meira um Íslendinga sagt í bók þessari en nokkurn annan lúterskan þjóðflokk. Séra Friðrik J. Bergmann hefir í sérstakri grein í bókinni sagt frá hinu lúterska kirkjufélagi Vestr-Íslendinga. Og auk þess standa þar smágreinir eftir hann um eina tuttugu kennimenn og rithöfunda á ýmsum tímum í kirkjunni á Íslandi. Og eftir ritstjóra ,,Sameiningarinnar'' er þar ritgjörð um kirkjusögu Íslands frá því um siðaskiftin á 16. öldinni.

Um hið lúterska kirkjufélag Finnlendinga í Ameríku, *Suomi*-sýnóduna, er þar á móti að eins afar lítil smágrein, — einar níu línur, — nálega sama sem ekki neitt. Það kirkjufélag er þó öllu stœrra en vort og meðal annars þegar fyrir nokkru búið að koma sér upp menntastofnan í bœnum Hankock í Michigan-ríki. Sumra stór-merkilegra kennimanna og guðfrœðinga í lútersku kirkjunni á Norðrlöndum er hvergi minnzt í bókinni. Monrad biskup í Danmörk er t. a. m. ekki nefndr. Ekki heldr aðrir eins aðalmenn nútíðarkirkjunnar í Norvegi og prófessor Petersen við háskólann í Kristjaníu eða Gustav Jensen, eitthvert allra bjartasta ljósið meðal norsku prestanna.

Smávilla er í nafni séra Tómasar Sæmundssonar, sem auðvitað er prófarkalesaranum að kenna. Hann er kallaðr ,,Somundsson'', og sökum þessarar prentvillu er hætt við, að greinin um þennan merkilega Íslending fari fram hjá þeim, sem leita eftir nafni hans í bókinni. — Aðra smá-prentvillu í ritgjörðinni um lútersku kirkjuna á Íslandi vildum vér líka leiðrétta. Þar stendr fyrir framan nafn Pétrs biskups Pétrssonar: *a noble divine*, í staðinn fyrir: *a noted divine*.

*The Lutheran Cyclopedia* er talsvert dýr. Verðið fyrir áskrifendr er 4 doll.s, en 5 doll.s fyrir aðra.

---

Almanak hr. Ólafs S. Þorgeirssonar fyrir þetta ár (1900) kemr með áframhald af landnámssöguþáttum Vestr-Íslendinga, sem byrjuðu í almanakinu fyrir síðastliðið ár. Þeir þættir eru stór-mikils virði, þótt í stuttu máli sé. Kirkjumála er þar getið álíka mikið eins og annarra félagsmála, og hefir

safn þetta því einnig kirkjulega þýðing. En í þessa árs almanaki eru þessar smávillur, sem vér viljum leiðrétta. Á bls. 66 efst er nefnd „Missíóns-sýnóda" og tekið fram, að séra Páll heitinn Þorláksson hafi verið talsmaðr kenninga þess kirkjufélags. Þetta er misprentan í staðinn fyrir „Missouri-sýnóda". Þar er og í sama þætti (á sömu bls.) sagt, að séra Páll hafi verið hinn fyrsti prestr, sem vitjaði Ísl. í Minnesota, nefnilega haustið 1879. En ef þetta ártal er rétt, þá hlýtr hitt að vera skakkt, því séra Jón Bjarnason heimsótti nýlendu þessa (norðan úr Nýja Ísl.) haustið 1878 og vann þar ýms prestsverk;—og aftr vorið 1880 (á leiðinni heim til Íslands) eins og réttilega er um getið í söguþættinum. Á bls. 34 efst er nefnt *Andabon* county í Iowa. Það á víst að vera *Audubon*. Á bls. 39 er Þangbrandr, norski kristniboðinn á Íslandi, kallaðr *biskup*, sem á að vera *prestr*.—Annars er almanakið mjög eigulegt rit. Og sérstaklega á útgefandinn miklar þakkir skilið fyrir landnámssögu-þættina.



Við og við hefir „Sameiningin" bent lesendum sínum á hið skrautbúna og fróðlega hálfsmánaðarrit *The Illustrated Home Journal*, er „Louis Lange Publishing Co." í St. Louis gefr út. Fimmti árgangr þess hófst með nýári síðasta. Og er það nú stœkkað,—hvert númer nú 20 bls. eða meira í stað 16 bls. áðr. En verðið helzt þó sama sem áðr var—$1.00. Lesmál blaðsins er ágætt, og þó að sumum þyki það sjálfsagt ókostr, hve harðlega það dœmir málstað Breta í ófriði þeirra við Búa, þá mælir það vissulega með blaðinu hjá öðrum.

---

Hinn skozki prestr og rithöfundr, dr. John Watson („Ian Maclaren"), sem skáldsagan litla („Rœðan hennar móður hans") er eftir í Aldamótum frá 1898, hefir nýsamið æfisögu Krists—„The Life of the Master". Það verk er nú að koma út, prýtt einkar vönduðum myndum eftir Corwin Knapp Linson, í tímaritinu *McClure's Magazine* (í New York). Dr. Watson varð stór-frægr fyrir ritsnilld eftir að út var komið hér um árið sögusafnið hans *Beside the Bonnie Briar Bush*.

## SKÝRSLA yfir eignir, fólkstal og sd.skólahald í kirkjufélaginu í Júní 1899.

| | I. FÓLKSTAL OG EIGNIR. | | | | | | | II. SUNNUDAGSSKÓLINN. | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| SÖFNUÐIR. | Fermdir | Ófermdir | Samtals | Altarisg. | K.kjueign | Skuld | Sk.dagar | Kennarar | Innritaðir | Fermdir | Ófermdir | Flestir | Fæstir | Meðaltal |
| 1 Marshall-söfnuðr | 32 | 24 | 56 | 26 | $1500 | $ | 52 | 4 | 24 | 6 | 18 | 22 | 12 | 17 |
| 2 St. Páls-söfn | 140 | 62 | 202 | 120 | 3500 | | 52 | 11 | 107 | 24 | 83 | 82 | 53 | 63 |
| 3 Lincoln-söfn | 130 | 95 | 225 | 100 | 300 | | 22 | 4 | 70 | 18 | 52 | 70 | 20 | 45 |
| 4 Vestrheimssöfn | 65 | 34 | 99 | 30 | 1400 | | 26 | 3 | 20 | 2 | 18 | 20 | 8 | 14 |
| 5 Garðar-söfn | 370 | 255 | 625 | 216 | 3800 | | 26 | 6 | 65 | 20 | 45 | 62 | 12 | 48 |
| 6 Þingvallasöfn., N.-D. | 150 | 100 | 250 | 81 | 2500 | | 27 | 5 | 83 | 25 | 58 | 47 | 12 | 31 |
| 7 Víkrsöfn | 216 | 119 | 335 | 127 | 2500 | 100 | 20 | 4 | 56 | 16 | 40 | 51 | 10 | 45 |
| 8 Fjallasöfn | 71 | 32 | 103 | 44 | 800 | | | | | | | | | |
| 9 Hallson-söfn | 112 | 62 | 174 | 17 | 2500 | 650 | 12 | 3 | 17 | 1 | 16 | 14 | 6 | 8 |
| 10 Pétrssöfn | 130 | 110 | 240 | 57 | 2000 | 200 | 67 | 4 | 75 | 12 | 63 | 43 | 20 | 37 |
| 11 Vídalínssöfn | 315 | 182 | 497 | 140 | 1275 | | 62 | 5 | 88 | 18 | 70 | 68 | 10 | 40 |
| 12 Grafton-söfn | 35 | 26 | 61 | 18 | 1050 | 70 | 48 | 1 | 11 | 2 | 9 | 11 | 5 | 10 |
| 13 Pembina-söfn | 130 | 65 | 195 | 62 | 1700 | 50 | 52 | 5 | 50 | 13 | 37 | 49 | 24 | 39 |
| 14 Fyrsti lút. söfn. í Wpeg. | 512 | 297 | 809 | 334 | 5000 | 300 | 52 | 19 | 245 | 57 | 188 | 185 | 102 | 153 |
| 15 Fríkirkjusöfn | 167 | 70 | 237 | 152 (15–16) | 4000 (15–16) | 300 (15–16) | 37 (15–16) | 10 (15–16) | 257 (15–16) | 106 (15–16) | 151 (15–16) | 160 (15–16) | 34 (15–16) | 108 (15–16) |
| 16 Frelsissöfn | 250 | 172 | 422 | | | | | | | | | | | |
| 17 Brandon-söfn | 39 | 47 | 86 | 1 | 700 | 30 | 52 | 4 | 32 | 4 | 28 | 29 | 16 | 20 |
| 18 Þingvallanýlendu-söfn | 80 | 83 | 163 | 31 | | | | 4 | 29 | 4 | 25 | 28 | 13 | 21 |
| 19 Selkirk-söfn | 75 | 55 | 130 | | 1800 | | 44 | 7 | 98 | 5 | 93 | 98 | 37 | 67 |
| 20 Víðinessöfn | 35 | 30 | 65 | | | | | | | | | | | |
| 21 Árnessöfn | 31 | 27 | 58 | | | | | | | | | | | |
| 22 Brœðra-söfn | 79 | 43 | 122 | 45 | | | 24 | 3 | 50 | 14 | 36 | 33 | 14 | 26 |
| 23 Fljótshlíðarsöfn | 72 | 43 | 115 | | | | | | | | | | | |
| 24 Mikleyjarsöfn | 31 | 26 | 57 | 3 | 800 | | 25 | 1 | 42 | 14 | 28 | 25 | 8 | 16 |
| 25 Melanktonssöfn | 74 | 70 | 144 | | | | 30 | 3 | 21 | 7 | 14 | 21 | 7 | 15 |
| 26 St. Jóhannesarsöfn | 22 | 17 | 39 | 20 | | | 3 | 4 | 8 | | 8 | | | |
| | 3363 | 2146 | 5509 | 1614 | 37125 | 1700 | | 109 | 1448 | 369 | 1080 | 1118 | 423 | 826 |

ATHUGASEMDIR við skýrsluna.—Í Fjallasöfnuði er sunnudagsskóli haldinn að eins þegar guðsþjónustur fara þar fram, sem er átta sinnum á ári. Í Vídalíns- og Pétrssöfnuðum er sunnudagsskólinn haldinn í tvennu lagi, en skýrslur sameinaðar. Allar skýrslur vanta frá Víðinessöfnuði, Árnessöfnuði og Fljótshlíðar söfnuði; tölurnar frá fyrri árum eru látnar standa. Fólksfækkun í Grafton-söfnuði stafar af burtflutningi úr bœnum. Í Vídalínssöfnuði er um 50 manns tilheyrandi söfnuðinum ótalið sökum þess, að það er flutt úr byggðinni. Skýrslur um missíónar-starf prestanna

hefi eg engar fengið, nema frá séra O. V. Gíslasyni og get því eigi gefið glögga skýrslu um prestsverk þau, er í heild sinni hafa unnin verið í nafni kirkjufélagsins, og sleppi henni því alveg. — Í kirkjufélaginu er einum söfnuði fleira en í fyrra, og 221 sál fleira. Skuldlausar eignir kirkjufélags-safnaðanna eru $3,025 fram yfir það, sem var í fyrra. Fjórum sunnudagsskólum er nú fleira en á síðasta ári, sex kennurum og 112 nemendum. — Þannig vex og þroskast kirkjufélagið ár frá ári. Vöxtr þess er að sönnu hœgfara, en hann er hollr eg eðlilegr.

Minneota, Minn., í Desember 1899.

BJÖRN B. JÓNSSON,
skrifari kirkjufélagsins.

---



---


„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.